# PÁFATRÚIN.

---

Gleymið aldrei því, sem vjer höfum unnið við siðabót Lúthers! vjer höfum fengið ljós, þekkingu, dygð og trúar frelsi. Gleymið aldrei þeim ávöxtum, sem spruttu á trje páfadómsins, er það stóð í blóma sínum! Þeir ávextir voru vanþekking, hjátrú, ódygð og ofurvald klerka. Guð var til reiði reittur, sálirnar glötuðust, djöflinum var dillað!!!

Jón Englendingur.

# KATHÓLSKAN

borin saman við

# LÚTHERSKUNA.

Út gefið hefur

Svb. Hallgrímsson.



Akureyri 1857.

í prentsmiðju Norður- og Austurumdæmisins,
af H. Helgasyni.

## Áminning Lúthers
### til kristinna manna á hans dögum.

Kristnir menn! lærið að þekkja og meta Guðs miklu vegsemd og dýrð, sem hann birtist oss með í kirkju sinni. Hún er það heimili Guðs, þar er hann býr hjá oss sem faðir, talar við oss og umgengst oss sem syni og dætur, hún er dyr á himnaríki, er vjer eigum að ganga inn um burt frá þessu jarðneska lífi. Þess vegna má ekki heyrast eða sjást í kirkju Guðs neitt, sem honum er ekki verðugt. Kirkjan á sjer stað í guðshúsi, á heimilinu, í svefnherberginu. Þar sem tveir eða þrír eru saman komnir í nafni Guðs, þar er hann sjálfur mitt á meðal; já, þó maðurinn tali ekki nema við sjálfan sig, er hann hefur Guð fyrir augum sjer, þá er Guð hjá honum með englum sínum, svo þar standa opnar dyr á himnaríki.

En Kristur er sá hyrningarsteinn, er allt verður að byggjast á, sem á að geta staðizt fyrir Guði. Sjerhvað, sem byggt er á öðrum grundvelli, fær ekki staðizt og hlýtur að falla. Því skulum vjer af öllum mætti halda oss föstum við hann, sem er vort höfuð, eins og limir á einum líkama.

En það er Heilagur Andi, sem leiðir menn í samfjelag við Krist, með því að hann verkar í þeim trúna á hann, og helgar þá með trúnni honum til þjónustu. Andinn gefur manninum nýtt hjarta og nýtt hugarfar; og þetta hið nýja lífið, sem hann vekur og glæðir hjer, fullkomnast ekki fyr enn í eilífu lífi.

Spyrjið þjer: á hverju þekkist þá þessi heilaga, kristilega kirkja, og þessi kristilegi, heilagi lýður? — Fyrst á Guðs heilaga orði. því guðsorð er heilagt og helgar allt sem það nær til; það er kraptur Guðs til sáluhjálpar öllum, sem því trúa. Hvar sem þú sjerð eða heyrir að þetta orð er kennt, því trúað með hjartanu, játað með munninum og eptir því lifað með verkunum, þár þarftu aldrei um að efast, að lýðurinn hljóti að vera heilagur og kristilegur. — Enn fremur á hinum heilögu sakramentum skírnarinnar og kvöldmáltíðarinnar, þar sem þau eru rjettilega kennd, þeim trúað, þau hagnýtt og meðtekin eptir þeim tilgangi, sem Kristur hafði er hann innsetti þau. Sakramentin eru háleitir og helgir dómar, sem Kristur hefur sjálfur eptirskilið oss til að helga með játendur sína; líka eiga þeir með þeim að votta það opinberlega að þeir heyri honum til. — Einnig á því að kallaðir eru og vígðir kirkjuþjónar, prestar og sálusorgarar, sem geta höndlað rjett með hina helgu dóma,

því leikmenn hafa ekki heimild til að gjöra það. — Kristilegur lýður þekkist líka loksins á bæninni, á hinni opinberu þakkargjörð, sem hann sendir Guði, og á hinum heilaga krossi, sem hann verður að bera. Því hann kemst ekki af í lífinu án armæðu og ofsókna, án freistinga og árása af djöflinum, heiminum og holdinu; hann sætir innvortis baráttu og útvortis fyrirlitningu, svo hann læri að halda sjer stöðugt og fast við Krist og hans orð. Með þessum krossburði gjörir Heilagur Andi ekki einungis að helga lýðinn, heldur og að farsæla hann.

Það skuluð þjer vita, að svo er Krists ríki varið, að gjörvallur heimurinn er uppi á móti því. Þess vegna þurfum vjer að búa vel út og brynja hjörtu vor, svo vjer eigi hræðumst og látum hugfallast, heldur minnumst þess, að þetta hlýtur svo að vera, og verður með engu móti afstýrt. Því allt af verður heimurinn líkur sjálfum sjer og fúsastur á það, sem fjandinn vill.

Í hinni heilögu, kristilegu kirkju hafast ávallt við margir skelmirar, sem hún getur ekki losast við, því í þessu lífi verða góðir og vondir að vera saman. Kristur sjálfur og postular hans máttu til að hafa Júdas með sjer. Þar sem húsbóndinn hefur sáð hinu góða sæðinu, þar sáir óvinurinn illgresi sínu. Já, sjerhver kristinn maður finnur æfinlega eitthvað óhreint hjá sjálf-

um sjer, t. a. m. að hann ekki heyrir guðsorð eins kostgæfilega, trúir ekki eins sterklega, meðkennir ekki Drottinn eins djarflega, ákallar hann ekki eins einlæglega, hlýðir ekki boðum hans eins rækilega og hann ætti að gjöra. Enginn er sá, er eigi hafi margan brest og breiskleika, þó hann daglega lagi lifnað sinn eins vel og hann getur.

Hver annar getur þá í slíkri baráttu verndað og viðhaldið kirkjunni, enn Kristur sjálfur, sem segir: jeg er með yður alla daga allt til enda veraldar? Sjálfsagt er oss líka skipað að vaka yfir og varðveita ljósið, að því leyti sem í voru valdi stendur, en eigi getum vjer viðhaldið kirkjunni. Hvorki þú nje jeg var til fyrir þúsund árum, og þó stóð kirkjan þá, og þessa stund sem vjer lifum, getum vjer ekki varið hana fyrir árásum djöfulsins og vondra manna; væri kirkjan byggð á oss, hlyti hún að falla og vjer með. Því síður getum vjer þá annast um hana, þegar vjer erum dauðir. Það er vesæl huggun fyrir kirkjuna, er margir hafa ímyndað sjer, að þeir yrði að viðhalda henni, allt eins og hún væri byggð á þeim.

En svo flekkaðir, syndugir og breiskir sem vjer erum, er og verður það þó æfinlega skylda vor að sjá um, að lærdómurinn sje ávallt kenndur hreinn og heilagur. Líferninu

getur hæglega skjátlað, svo eigi gæti það alls sem lærdómurinn heimtar, en lærdómnum sjálfum má ekki skjátla í einum bókstaf eða titli; því hann er Guðs orð og sannleikurinn sjálfur, en blandast af breiskleika vorum þegar til breytninnar kemur. þó manninum skjátli í breytni sinni, getur Guð fyrirgefið honum það af miskun sinni; en nemi einhver í burtu eða umbreyti lærdómnum sjálfum, sem menn eiga að laga breytnina eptir, þá getur Guð ekki liðið það, og er þar engrar miskunar nje fyrirgefningar von.

En þú, sem ert prestur, gæt dyggilega þíns embættis, linn aldrei að kenna og áminna, og vara kostgæfilega við falskennendum, svo eigi komizt þeir að og dirfist að kenna opinberlega, því þeir eru glepsandi vargar; það er bágt að koma í veg fyrir það, að þeir ýlfri í leyni og spúi eitri sínu í afkimum; en frá prjedikunarstólnum og altarinu skaltu bægja þeim, að svo miklu leyti sem í þínu valdi stendur. þú skalt verja þig á móti þeim með orðinu og trúnni; láttu þá ekki hepta þig svo, að þú eigi meðkennir Krist djarflega; áminntu og ávítaðu þá eins og þú bezt getur. Með mannlegu valdi og myndugleika getum vjer ekki burtrýmt og snúið þeim, en það getur enginn bannað oss að beita gegn þeim sverði andans, sem er guðsorð. því hvað fögur og álitleg sem manna orð eru, hljóta þau að falla, og með þeim

hver sú sál, sem sett hefur traust sitt á þau. En guðsorð er eilíft og stendur stöðugt; og það er sá grundvöllur sem samvizkan verður að byggja á. Manna orð farast fyrir og sjerhvað sem á þeim er byggt. þess vegna er það víst, að þeir sem ekki prjedika Guðs orð hreint og beint, spilla og deyða hjörð Krists. En eigi má presturinn hugsa á þá leið: til hvers á jeg að prjedika fyrir heiminum, sem ekki vill heyra sannleikann, nje láta finna að við sig, og til hvers á jeg að baka mjer óvild, hatur og hættu? Nei, þú átt að kenna öðrum veginn til sáluhjálpar og eilífs lífs, og það áttu að gjöra með fúsu geði og fyrir alls ekki neitt; já, þú átt að gjöra það, þó þú verðir að líða neyð og smán fyrir. Tvent er það, sem hver prestur þarf að gæta: fyrst óaðfinnanleg breytni, svo hann geti boðið byrginn, að eigi hafi neinn orsök til að hæðast að lærdóminum; því næst hreinn lærdómur, svo eigi leiði hann neinn í villu. Gæti hann þessa getur hann staðizt, að breytninni til fyrir óvinunum, sem líta meir á verkin enn kenninguna og fyrirlíta hana, því heldur ef verkin eru vond; en að lærdómnum til fyrir hinum guðhræddu, sem meta hana meir enn líferniö og sjá í gegnum fingur við það fyrir sakir lærdómsins. þar sem allt fer með felldu, þá eiga þeir, sem kennivaldið hafa á hendi, að búa yfir móðurlegu hjarta til kirkjunnar, því vanti það verða kenn-

endurnir latir og stygglyndir, og fráleitir að vilja líða íllt kirkjunnar vegna. Og eins eiga tilheyrendurnir að sínu leyti að vera synir og dætur, sem vilja þiggja tilsögn og leiðbeiningu sjer til uppbyggingar.

En allir valdsmenn eiga af ýtrasta megni að sjá um það, að prjedikunarstóllinn sje byrgur af mönnum, sem stjórnað geta hinni opinberu guðsdýrkun Guði til dýrðar, svo guðsorð sje kennt hreint og klárt, án allra manna setninga, og svo að tilheyrendurnir laðizt og leiðizt til sannrar Guðs þekkingar með bót og betran. Það er aðalætlunarverk yfirvaldsins að annast um Guðs dýrð á jörðunni, um útbreiðslu hans ríkis, um varðveizlu hans sáluhjálplega orðs og um frelsi og sáluhjálp þegnanna, sem trúa yfirvaldinu fyrir þessu. Því yfirvaldið er ekki einungis til þess að vernda og varðveita líf, efni og virðingu manna, heldur líka til þess að annast um þeirra andlegu velferð. Sá sem valdið hefur verður víða við að koma. Fyrst verður hann að snúa sjer til Guðs með sannri trú og hjartanlegri bæn. Því næst til þegnanna með kristilegum kærleika og hjálpsemi, þar sem þeir þurfa með. Í þriðja lagi til ráðaneytis síns og ráðgjafa með greind og skynsemi. Í fjórða lagi til yfirtroðslumanna með alvörugefni og strangleika, en þó með mannúð og kurteysi. Gjöri hann þetta gætir hann skyldu sinnar bæði

við Guð, sjálfan sig og aðra. Því miður fer það opt svo, að þeir sem Guð hefur selt sverðið í hönd-ur, til þess að þeir beiti því, bera það í slíðrum og bregða því aldrei á lopt Guði til dýrðar. Þetta er mikil synd og sýnir mikla óhlýðni við Guð, enda verður þess hryggilega hefnt. Því þegar hinir veraldlegu valdsmenn hirða ekki um að beita tilhlýðilegri alvöru við opinberar hneigslanir, þá verður Guð sjálfur að dæma og bregða sverðinu. Og þegar Drottinn allsherjar fer á stað, kemur dómur hans ekki niður á einum eða tveimur, held-ur á heilli borg og heilu landi.

Svo eigum vjer allir að biðja: Vor góði Guð og Faðir! heyrðu þessa bæn vora: stjórna þú þinni heilögu, kristilegu kirkju, varðveittu biskupa, presta og kirkjuþjóna í hinum sáluhjálplega lærdómi og framferði; afstýrðu öllum hneigslunum, leiddu alla villuráfandi á rjettan veg, gef oss að sundurmola höggormsins höfuð, sendu trúa verkamenn í víngarð þinn, veittu orði þínu líf og anda, veittu höfðingjum landanna, hverju nafni sem heita, að lifa saman í friði, og valdsmönnum þeirra að vaka yfir dýrð þinni á jörðunni. Miskunaðu þig yfir alla menn! Jesús Kristur, Guðs Sonur, heyrðu þessa bæn vora! Amen.

# Kenning
## hinnar rómversk-kathólsku kirkju.

Hin rómverska kirkja kallar sig því hinu fagra nafni „kathólska“ hina almennilegu, og segist vera „hin eina sáluhjálplega.“

Hún kennir:

### I. Í greininni um Guðs orð.

1. Hinar apokryphisku bækur gamla testamentisins hafa hið sama guðlega álit, eins og hinar kanonisku [1].

**Athugasemd:** þá segjum vjer, sem erum **evangelisk-lútherskrar** trúar, að hinar apokryphisku bækur sjeu að vísu þess verður að lesast og geti verið til uppbyggingar, en að eigi geti þær, eins og hinar kanonisku, gjört tilkall til þess að vera í guðlegu áliti og gildi. því 1, voru hinar apokryphisku bækur ritaðar eptir daga Malakiasar, sem var seinastur spámannanna; og gjörir þetta þær mjög tortryggilegar. 2, eiga þær ekki að styðjast við nokkurn vitnisburð af munni Krists

---

[1]) Hinar svo nefndu apokryphisku bækur eru þessar: Júdits bók, Spekinnar bók eða Salómons speki, Tobías bók, Jesú Síraks bók, Barúks bók, Fyrri og Síðari Makkabea bækur, Greinir viðvíkjandi Esters bók, Sagan um Súsanna og Daníel, um Bel og Drekann í Babel, Bæn Asaría og lofsöngur þriggja manna í eldinum, og Manassis bæn.

eða postula hans. 3, voru þær eigi taldar með hinum helgu ritum af Gyðingum í landinu helga, sem þó „var trúað fyrir Guðs orði“ (Rómv. 3, 2.) og hverra álit því í þessu efni er mikilsumvarðandi.

2. Hin latinska þýðing biblíunnar (sem kallast Vulgata) eptir kirkjuföðurinn Hjerónymus, sem lifði á 5. öld, á — segir hin rómverska kirkja — að álítast áreiðanleg og gild í opinberum fyrirlestrum, deilum, prjedikunum og útskýringum, og engi má dirfast að hafa á móti henni.

Athugasemd: þá segjum vjer: þvílíkt gildi, sem enginn má í móti mæla, getur engin mannleg þýðing haft hvað góð sem er, og ekkert nema textinn sjálfur, sem talaður er af hinum heilögu Guðs mönnum, knúðum þar til af Heilögum Anda (2. Pet. 1, 21); og allra sízt þá Vulgata, sem sanna má að skjátlar í þýðingu sinni á mörgum stöðum.

3. Hin heilaga móðirkirkja hefur ein rjett til þess að skera úr því, hver sje hin rjetta meining í orðum heilagrar ritningar, og enginn má dirfast að þýða ritninguna í móti því, sem kirkjufeðrunum[1] hefur komið ásamt um, þó að þessi samhljóða þýðing þeirra sje aldrei látin koma fyrir manna sjónir.

Athugasemd: þá segjum vjer: þar eð Guðs orð er opinberað fyrir Heilagan Anda, hlýtur það sjálfsagt andlega að dæmast (1. Kor. 2, 10—16,

---

[1]) Kirkjufeðurnir hafa aldrei orðið samhljóða um nokkra þýðingu heilagrar ritningar!

sjerílagi 14. vers), það er að segja: aðrir geta ekki skilið [1] það rjett enn þeir, í hverra hjörtum Heilagur Andi lifir og verkar, það eru hinir lifandi limir kristilegrar kirkju; og er þá minnst undir því komið hverrar stjettar eða stöðu maðurinn er, því þeir munu allir verða af Guði uppfræddir, segir ritningin (Jóh. 6, 45). Eptir þessu hefur þá kirkjan ein rjettan skilning á ritningunni. En hinir kathólsku meina engan veginn með „móðirkirkju" alla lifandi limi kristilegrar kirkju, heldur einungis almenna biskupafundi, og því ekki nema lítinn hluta af kirkjunni, sem þá þar að auki er tekinn af vissri stjett, hinni andlegu, líka opt ekki nema einn einasta lim kirkjunnar, páfann, og það sem verst er án tillits til þess, hvort Heilagur Andi lifir og verkar í hjörtum þeirra eða ekki, eða án þess að gæta að því, hvort þessir menn eru lifandi limir kristilegrar kirkju eða ekki.

4. Samsíða hinu skrifaða Guðs orði standa munnmælin og hafa engu minna gildi enn það, því þau eru það einmitt, sem hjálpa mönnum til skilnings á orðum ritningarinnar, sem eru torskilin, og til að fylla upp eyðurnar í frásögum

---

[1]) Það er sitt hvað að skilja ritninguna og þýða hana rjett á annað mál. Til þess að geta þýtt biblíuna rjett þarf vissa þekkingu og sjerstaka náðargáfu Heilags Anda. En hvorki þekkingin nje gáfan er bundin við það að vera biskup, eða nokkur annar embættismaður kirkjunnar.

ritningarinnar, og eru þau þar áreiðanlegri enn ritningin sjálf.

Athugasemd: þá segjum vjer: Drottinn og postular hans hafa sjálfsagt talað meira enn í letur er fært, og í hinum fyrstu söfnuðum gat margt orð og atvik gengið mann frá manni í munnlegum frásögnum; en slík munnmæli eru síður enn ekki áreiðanleg sökum syndarinnar og breiskleikans, og geta því ekki verið nein mælisnúra fyrir hið ritaða orð, því einmitt hið munnlega orð á að lúta hinu skrifaða (Post. Gjörn. 17, 11.). Að öðru leyti sjest það beinlínis af 2. Tim. 3, 15, að Guð hefur í heilagri ritningu látið rita allt, sem nauðsynlegt er til sáluhjálpar, ekki einungis fullkomlega, heldur líka svo skiljanlega[1] sem þarf til sáluhjálpar, svo vjer alls ekki þurfum með þessara munnmæla, til að fylla upp eða þýða heilaga ritningu.

[1]) þar sem ritningin sýnist vera myrk, þar ræðir um hluti sem ekki er óumflýjanlega nauðsynlegt að vita sjer til sáluhjálpar; og það eru ekki svo orð ritningarinnar sem eru myrk, heldur efnið sjálft, af því það er of háleitt og óskiljanlegt, og verður ekki um það rætt nema með leyndardómsfullum orðatiltækjum (1. Kor. 13, 12.). En opt er það manninum sjálfum að kenna, að orð ritningarinnar eru myrk fyrir honum (Matt. 6, 23.) því mannleg skynsemi er blind vegna harðúðar hjartans (Eph. 4, 18.) og getur ekki skilið það rjett (1. Kor. 2, 14.). Stundum gjörir Guð það, að ritningin er myrk fyrir oss, í því skyni að skerpa athygli vora og reyna vora trú.

## II. Í greininni um Guð.

1. Engla og helga menn [1], meðal hverra María, svo sem Jesú blessaða móðir, er hin helzta, eiga menn að vísu ekki að tilbiðja, en ákalla skal þá um fyrirbæn hjá Guði.

Athugasemd: þá segjum vjer: þetta hefur Guð aldrei skipað oss, nje heitið oss neinu góðu fyrir. Sjálfsagt er það engum efa bundið, að hinir heilögu englar og hinir sælu andar frammliðinna sameina bænir sínar á himnum bænum vorum á jörðunni, þó vjer ekki biðjum, og bæta þannig bænareykelsi sínu við bænakvak vort (Opinb. Jóh. 5, 8; 8, 3—4.). Líka er það vel hugsanlegt, að þeir ekki einungis biðji með held-

[1]) það er ekki af hendingu að hin rómverska kirkja leitar heldur fyrirbæna helgra manna enn englanna hjá Guði, því 1., hafa hinir helgu menn verið reyndir á mannlegan hátt, og þess vegna má leita til þeirra með betra trausti og trúnaði enn til englanna; 2., hafa þeir, eptir meiningu kathólskra, með hlýðni sinni við evangelíum gjört sig svo góðs maklega hjá Guði, að hann eigi getur annað enn tekið til greina fyrirbænir þeirra, því það er augljóst af trúarjátningu hinnar rómversku kirkju, að hún þakkar ekki eingöngu friðþægingu Jesú Krists þann krapt, sem fyrirbænir helgra manna hafa, heldur gjörir hún helga menn að verulegum talsmönnum og friðþægjurum með Kristi; því það stendur með berum orðum: að María með fyrirbæn sinni eigi að „friðþægja“ Guð, og líka er með berum orðum talað um hennar „frammúrskarandi verðleika“ fyrir Guði.

ur líka fyrir hinni stríðandi kirkju á jörðunni. En hverja verkun slíkar fyrirbænir kunni að hafa fyrir kirkjuna, þegar hún er í einhverjum vanda stödd, veit enginn, því enginn getur sagt, að hve miklu leyti hinir heilögu á himnum þekkja[1] hið sjerstaklega neyðarástand á jörðunni. Engan veginn eru þeir alstaðar nálægir og alvísir, því það er enginn nema Guð einn; svo að þeir, sem eigi að síður leita fyrirbæna engla og helgra manna hjá Guði, hljóta að eigna þeim guðlega fullkomlegleika, þó þeir ekki kveði upp með það, og falla þannig sjálfum sjer óafvitandi til afguðadýrkunar, og geta því alls ekki gjört sjer neina von um bænheyrslu.

2. En móðir Maríu skulu menn sjer í lagi biðja og ákalla svo sem „miskunsemdanna móður“ um hjálp bæði í líkamlegri og andlegri neyð.

Athugasemd: Þá segjum vjer: það sem sagt er hjer á undan á móti 1, gildir einnig á móti 2. En að María er kölluð miskunsemiunar

---

[1]) Í brjefinu til enna Hebr. 12, 1. kallast að vísu hinir rjettlátu á himnum „vitna fjöldi“ sem vjer erum umkringdir af meðan vjer berjumst hjer. En eigi verður það sannað, að þeir sjeu kallaðir vitni, af því þeir eins og horfa á oss af himnum ofan; það er allt eins líklegt að þeir kallist vitni, af því þeir með orði og verki og þjáningum hafa sýnt vitnisburði um trú sína, og að vjer í þeim skilningi sjeum umkringdir af þeim, að trúarlíf þeirra er oss fyrir sjónir sett í guðsorði oss til eptirbreytni (Hebr. 13, 7).

móðir, sem menn eiga að biðja og **ákalla**, hefur í rauninni enga aðra þýðingu enn þetta: María sem viðkvæm kona og reynd móðir, er sverð hafði nýst sálu hennar, er miskunsamari enn allir helgir menn; hún kemst við af innilegum bænum manna. Og hjer liggur þá sú hugsun nærri, sem líka bryddir á í prjedikunum og bókum, að María sje jafnvel miskunsamari enn Guð Faðir sjálfur, (því hann hefur aldrei verið reyndur), já, líka miskunsamari enn Jesús Kristur, hver eð, að því leyti sem hann er maður, hefur að sönnu mannlegt hjarta, en, að því leyti sem hann er karlmaður, ekki hið viðkvæma konu hjarta[1].

---

[1]) Líka elur hin rómverska kirkja þá hugsun, þó hún ekki gjöri það í trúarjátningarbókunum, þá samt í prjedikunarstólnum og skólunum, að Kristur eins og hlýðinn sonur (Lúk. 2, 51.) geti ekki sinjað sinni góðu móður um nokkra bæn, og gleymir þannig, að 1., byrjar hverjum **mannlegum syni** að hlýða Guði framar enn foreldrum sínum; 2., að Kristur er ekki einungis sonur hennar, heldur líka **Drottinn** hennar og **Guð**; 3., að hann hefur nú **niðurlagt þá þjóns mynd**, sem hann tók upp á sig í mannlegu holdi, og sem gjörði hann að syni hennar; 4., að, meðan hann umgekkst á jörðunni, var hann foreldrum sínum hlýðinn einungis þegar það gat staðizt með hans háleita erindi (Jóh. 2, 4.) Til sönnunar því hvaða álit kathólskir hafa á Maríu, þá fylgja hjer kaflar úr ræðum, sem fluttar voru 1839 í Sorento hjá Neapel, og er þó opt tekið dýpra í árinni enn hjer, er gjört.

„María elskar oss innilega og því vill hún liðsinna oss;

3. Sömuleiðis eiga menn að auðsýna líkneskjum helgra manna fyrir sakir þeirra, sem þær tákna, „tilhlýðilega virðingu og dýrkun“ (en líkn-

---

en hún getur það líka, því svo er sem segja hinir heilögu kirkjufeður: í Paradís er hinni heilögu Maríu ekki neitað um nokkurn hlut; bænir hennar eru skipanir. Hvers vegna? Sonur hennar Jesús Kristur hefur kennt oss að elska og hlýða foreldrum vorum, og skyldi hann þar ekki ganga á undan oss með góðu eptirdæmi? Annað er ekki hugsanlegt. Þegar hin háheilaga María nálgast hástól síns háttupphafða sonar til að frambera fyrirbæn fyrir dýrkendur sína, þá getur hinn hlýðni sonur ekki neitað sinni elskuðu móður um bænheyrslu. Annars eigið þjer þetta fyllilega að Maríu fyrir þá þjónustu, sem þjer veitið henni. Það er auðvitað mál. Og hún er þakklát, mjög svo þakklát. Gott og vel! hin háheilaga María veit hvers þjer óskið, hún megnar eins mikið með bæn sinni og Guð með sínu almætti; og loksins er það líka skylda hennar að biðja fyrir yður. Þannig er það þá enginn efi, að hún líka vill liðsinna yður.

Með þessari bæn endaði prjedikunin: „Háheilaga María, hreinasta jómfrú, hæðst upphafða drottning, virðist að heyra oss! Þjer eigið ráð á lyklum Paradísar, vjer biðjum yður að ganga fyrir hástól hinnar heilögu þrenningar, og afbiðja syndir vorar! Felið ekki ásjónu yðar fyrir oss; vjer erum aumir syndarar, glataðir án yðar liðsinnis! Sjá, móðir! neyð vora og bjarga vorum aumu sálum, vjer biðjum og grátbænum yður.“

Í annari prjedikun er svo að orði kveðið til að sýna vald Maríu: Og þó að allir forfeður, spámenn, postular, píslarvottar og helgir menn, og þar með líka Guð Sonur og Guð Faðir sjeu á móti og segi nei; en María sje hins vegar og segi já, þá gengur það eptir.

eski Krists tilbeiðslu og skal það gjörast með kossi, með beru höfði og með knjefalli.

Athugasemd: þá segjum vjer: enginn ráðvandur kristinn maður vill gjöra eða baka smán líkneski guðhrædds manns, (t. a. m. með því að að festa það upp á ósæmilegum stað, því það getur ekki álitist öðruvísi enn til að smána vísvitandi manninn, sem myndin er af, og hlýtur að olla hneigsli), þvert á móti vill hann sýna því allan sóma. En það gjörist hvorki með ástaratlotum, svo sem kossi, eða virðingarmerkjum, svo sem með beru höfði, sízt þess konar táknum, sem meðfram eru trúrækileg, svo sem knjefalli; yfirhöfuð með engum vissum virðingar- og lotningarmerkjum. þess konar getur ekki átt við að sýna líkneskjum, sem ekkert hafa sjer til ágætis og enga meðvitund, og jafnvel ekki mannanna vegna, sem líkneskin eru af; því ekki geta þeir meðdeilt myndum sínum meðvitund sína, eða það, sem þeir höfðu til síns ágætis; og fyrir sjálfa sig mundu þeir, væri þeir á lífi, afbiðja öll þess konar fyrirskipuð virðingar- og lotningarmerki, allra helzt fyrir sakir þeirra heilaga lífernis.

En að því leyti sem líkneski Krists viðvíkur, þá vitum vjer að hann er ekki bundinn við neinn vissan stað, heldur er alstaðar nærverandi (Eph. 4, 10.); og þar eð nú tilbeiðslan á ekki að koma

niður á líkneskinu sjálfu, til hvers er þá að gjöra sjer þennan krók að myndinni, sem bundin er við vissan stað? því bæði er það mótstríðandi Jóh. 4. 20, 24., og svo getur það líka og hefur það leitt menn til skaðlegrar hjátrúar, t. a. m. að í líkneskjunum byggi afl til að lækna menn.

4. Loksins eiga menn líka að dýrka líkami píslarvottanna og annara helgra manna, sem voru „musteri“ Heilags Anda og skulu á síðan „verða dýrðlegir“.

Athugasemd: þá segjum vjer: líkami Maríu var ekki einungis musteri Heilags Anda; Drottinn hafði sjálfur í honum tekið sína manndómlegu náttúru, þar er fylling guðdómsins bjó í líkamlega frá upphafi; en eigi að síður áleit Drottinn rjett að snúa athygli konu þeirrar, sem af þessum rökum prísaði sælan líkama Maríu, frá þessum útvortis hlutum til hins sáluhjálplega orðs (Lúk. 11, 28.). En ef vjer megum nú ekki vegsama líkami hinna heilögu, meðan þeir lifa, þá eigum vjer því síður að dýrka þá, þegar þeir eru dauðir[1].

5. Með þessum helgu dómum auðsýnir Guð mönnum marga velgjörninga (sjerílagi lækningu sjúkdóma).

Athugasemd: þá segjum vjer: þetta verð-

---

[1]) Það sem hjer er sagt gildir líka um alla helga dóma. Því þegar vjer ekki megum dýrka líkami hinna heilögu, þá því síður hluti, sem þeir hafa látið eptir sig.

ur ekki sannað af Gjörn. Post. 19, 12., nje af 2. Bók. Kong. 13, 21., sem hin rómverska kirkja skírskotar til. því á fyrra staðnum er ekki talað um muni, sem tilheyrðu svona almennt heilögum manni, heldur postula, sem Guð hafði gefið óalmenna kraptaverka gáfu; og á síðara staðnum er ekki talað um bein af almennt heilögum manni, heldur af þeim, sem var fyllilega guðlegur spámaður; líka getur það verið að Guð hafi við viss tækifæri, til að staðfesta kenningu postulanna, eins og hann hafði sjálfur lofað Mark. 16, 17., og 26. hafi virzt að laga sig eptir trúarveiki þessara manna, eins og Kristur gjörði við blóðfallssjúku konuna, sem hugsaði að hún, með því að snerta hann án hans vitundar, mundi verða heilbrigð Matt. 9, 21. Aldrei getur þó maðurinn af eigin ramleik komið Guði til þess að gjöra kraptaverk.

## III. Í greininni um manninn.

1. Hinna fyrstu manna meðfædda líking við Guð (ɔ: þeirra upprunalegi heilagleiki, rjettlæti, vizka) var ekki annað enn yfirnáttúrleg gjöf Guðs. (Maðurinn tapaði því engu af eðli sínu, þegar hann misti þessa líkingu við syndafallið).

Athugasemd: þá segjum vjer: 1. Mós. 1, 27. stendur með berum orðum, að Guð hafi skapað manninn eptir sinni mynd, það er eins og sjá má af Eph. 4, 24. og Col. 3, 10., með fullkomnu

rjettlæti, heilagleika og vizku; en þess er hvergi getið, að Guð hafi fyrst algjörlega skapað manninn, og svo á eptir gætt hann mynd sinni og líkingu. Töpun guðsmyndarinnar við syndafallið hlýtur því að álítast svo, að hún bæði hafi svipt oss Guðs upprunalegu velþóknun, og líka leitt spillinguna yfir mannlegt eðli.

2. Hin meðfædda holdlega girnd er ekki syndsamleg, fyr enn hún kemur fram í verknaði, (hún er til þess að gefa oss tilefni til að iðka þá dygð, sem girndinni er gagnstæð).

Athugasemd: þá segjum vjer: Matt. 5, 28. segir Drottinn, að hin holdlega girnd í sjálfri sjer sje verknaður, það er að segja: hjartans. Væri nú þessi verknaður hjartans engin synd, því mundi hann þá vera bannaður í lögmálinu, eða í hinum tíu laga boðorðum með þessum orðum: „þú skalt ekki girnast“? þekkir þá hin rómverska kirkja ekki lögmálið? Ef hún þekkir það, hlýtur hún, eins og postulinn Páll Rómv. 7, 7., að vita það, að girndin er synd. Enn fremur: væri girndin engin synd, en öllu heldur tilefni til dygðar, því erum vjer þá svo opt og alvarlega áminntir um að krossfezta þessa girnd, (þetta saklausa meðal til guðhræðslu?) (Gal. 5, 24.).

3. Mannsins siðferðislega eðli hefur ekki fyrir óhlýðni hinna fyrstu manna gjörst með öllu óhæfilegt til hins góða, heldur veikst að vissu leyti.

Athugasemd: þá segjum vjer: þessu mót-

mæla margir staðir heilagrar ritningar, en með berustu orðum seinni hluti 7. kap. í brjefi Páls til Rómverja frá 14. versi. Eða tjáir að tala um nokkurn hæfilegleika til góðs hjá mönnum, sem eptir eðli sínu eru undir syndina seldir (14. v) og herteknir undir lögmál syndarinnar (23. v.), í hverra holdi býr ekkert gott (18. v.). það stendur því stöðugt: „við Adams fall spiltist gjörsamlega eðli mannsins og allur vor innri maður".

## IV. Í greininni um friðþægingu Krists.

1. Kristur er, sem sannur Guð, óendanlegur, því er líka friðþæging hans óendanleg, og þess vegna fram yfir það fullgild til að afplána syndasekt manna, sem einungis er endanleg, af því að mennirnir, sem syndga, eru sjálfir endanlegar verur.

Athugasemd: þá segjum vjer: ef vjer vildum láta skynsemina eina skera úr þessu máli, þá getur hún með eins miklum ástæðum snúið málinu við og sagt: mennirnir, sem syndga, eru að vísu endanlegir, en Guð, sem þeir syndga á móti, er óendanlegur, og því er þá líka sekt þeirra óendanleg.

En vjer skulum nú ganga beinlínis eptir orðum ritningarinnar, og hún segir oss þá, að Kristur sje forlíkan fyrir vorar og allrar veraldarinnar syndir (1. Jóh. 2, 2.) og að friðþæging hans þess vegna sje fullgild fyrir syndir allra manna; en eigi

er til nokkur staður í ritningunni, sem það sjest af, að hún sje meir enn fullgild.

2. Þó að nú friðþæging Krists sje meir enn fullgild til að afmá syndasekt allra manna, afmáir hún þó ekki fullkomlega nema erfðasyndina; þess vegna heimtar Guð, auk friðþægingar Jesú Krists, fullnægjugjörð af manninum sjálfum fyrir hverja gjörningssynd, sem hann drýgir, — og það í þeim tilgangi, að vjer eigi látum gjörningssyndina liggja oss í of ljettu rúmi.

Athugasemd: Þá segjum vjer: þetta er syndsamleg mannasetning, sem enga heimild hefur fyrir sjer í heilagri ritningu; hún segir öldungis án mismunar, að Drottinn hafi endurleyst oss frá syndum vorum, og 1. Jóh. 1, 7. stendur með berum orðum: blóðið Jesú Krists hreinsar oss af allri synd; þess vegna ekki einungis af erfðasyndinni, heldur og af gjörningssyndinni, og enn fremur ekki einungis af einni eður annari gjörningssynd, heldur af einni og sjerhverri. Þess vegna er engin fordæming yfir þeim, sem eru í Kristó Jesú (Rómv. 8, 1.).

## V. Í greininni um trúna.

Það er trú: að álíta það satt sem kirkjan kennir.

Athugasemd: Þá segjum vjer: til trúar í biblíulegum skilningi útheimtist þetta þrennt: 1., að þekkja; 2., að álíta satt; 3., að byggja upp á sem víst (Hebr. 11, 1.). Hið fyrsta atriði við-

kemur minninu, hið annað skynseminni, hið þriðja hjartanu, og er það auðsjáanlega aðalatriðið. Því hvað tjáir það einungis að þekkja og álíta satt? þvílíka trú hafa djöflarnir og skelfast (Jak. 2, 19.); þess konar trú hafði og Júdas, sem gekk í burt og hengdi sig.

Þess vegna er trúnaðartraust hjartans, sem hin rómverska kirkja talar ekki orð um, aðalatriði hinnar sáluhjálplegu trúar.

## VI. Í greininni um rjettlætinguna.

Þegar Guð fyrir Krists sakir rjettlætir trúaðan syndara, þá ekki einungis tilreiknar hann honum friðþægingu Krists, heldur blæs honum líka í brjóst Krists rjettláta anda, og rjettlætir hann svo í þeim skilningi, að ekki einungis öll hans sekt, heldur líka allar hans syndir afmást og hverfa undir eins [1].

[1] Hin rómverska kirkja ruglar saman tilganginum og meðalinu. Sá er að vísu tilgangurinn með oss, að vjer verða skulum rjettlátir og heilagir, en rjettlætingin er ekki nema meðal til þess, því með henni öðlumst vjer löngun og styrkleika til að geta höndlað rjettlæti og heilagleika.

Af því hin rómverska kirkja skoðar ekki rjettlætinguna svo sem dómsorð Guðs út af fyrir sig, heldur ruglar henni saman við helgunina, sem af rjettlætingunni leiðir, svo getur maðurinn aldrei eptir hugmynd kathólskra verið viss um, að hann sje til náðar tekinn. Þar á móti kallar hin lútherska kirkja í eyru sínum trúmönnum: „nú eruð þjer þvegnir, helgaðir, rjettlættir fyrir Jesúm Krist!“ (1. Kor. 6, 11.) og þeir segja sjer sjálfir: andinn ber vitnisburð vorum anda, að vjer erum Guðs börn. (Rómv. 8, 16.).

Athugasemd: þá segjum vjer: ritningin talar ávallt með berustu orðum um tilreiknun rjettlætis, en aldrei um innblástur þess (Rómv. 4, 3. 5. 6. 8.; líka sannar reynslan, að þó að sá, sem rjettlættur er, sje laus við alla sekt (Rómv. 8, 1.) ber hann þó ávallt með sjer hið synduga eðli, og ritningin staðfestir það, (1. Jóh. 1, 8. 9.; Rómv. 7, 23.; Gal. 5, 17.).

## VII. Í greininni um náðina.

1. Maðurinn getur (að vísu með aðstoð Heilags Anda, en þó) með sjálfs síns siðferðislega styrkleika, gjört sig hæfilegan til að meðtaka Guðs rjettlætandi náð, og þannig „að vissu leyti verðskuldað hana“.

Athugasemd: þá segjum vjer: vjer erum ekki af sjálfum oss hæfir til að hugleiða neitt (Guði þóknanlegt) 2. Kor. 3, 5. og 1. Kor. 2, 14., því síður þá að vjer getum viljað[1] eða framkvæmt það (Jóh. 15, 5.); Guð er sá, sem hlýtur að koma því öllu til vegar í oss, Philipp. 2, 3. þannig verðum vjer rjettlættir án verðskuldunar af hans náð, Rómv. 3. 24. Af hverju

---

[1] Rómv. 7, 18. segir að sönnu Páll: „að vilja er til reiðu hjá mjer“; en þú skalt vita, að Páll talar hjer ekki um sig eins og hann var áður hann umventist, heldur eins og hann þá var, eptir að hann var til náðar tekinn og hafði öðlast gjöf Heilags Anda.

höfum vjer þá að stæra oss (eins og vjer gætum „að vissu leyti verðskuldað hana“)?

2. En þegar maðurinn hefur meðtekið Guðs rjettlætandi náð, hefur hann fengið hæfilegleika til að fullnægja öllum Guðs boðum, og getur svo með góðverkum sínum unnið til eilífrar sáluhjálpar.

Athugasemd: þá segjum vjer: sjálfsagt getur og á maðurinn, sem Guð hefur til náðar tekið, að efla sáluhjálp sína (Philipp 2, 12.); en ekki getur hann gjört það af eigin ramleik; það er Guð, sem kemur því til vegar í oss bæði að vilja og framkvæma (13. v.); hann verðum vjer að biðja á hverjum degi og hverri stundu, að efla og styrkja oss með sinni aðstoð, og þurfum þannig af hans nægtum að meðtaka náð á náð ofan (Jóh. 1, 16.). Þar eð vjer þá aldrei getum verið án Guðs samverkandi náðar, verðum vjer af náð ekki einungis rjettlættir heldur og hólpnir Eph. 2, 8. Post. Gjörn. 15, 11.; en ef það er af náð, þá er það ekki framar af verkum, annars væri náðin þá ekki framar náð (Rómv. 11, 6.).

## VIII. Í greininni um iðrunina.

(skriptamál og aflausn).

1. Til iðrunar heyra þessi þrjú atriði 1, angur hjartans (eða iðrun með betrunarásetningi; 2, játning munnsins (upptalning allra einstakra synda) og 3, fullnægjugjörð með verkum (sjerílagi: bæn, föstur, ölmusugjörðir).

Athugasemd: Þá segjum vjer: þetta þriðja atriði er beint á móti Krists fullgildu friðþægingu, og er þar að auki hlutur, sem mönnum er ómögulegur, er eiga á hverju augnabliki að óttast, elska og treysta Guði yfir alla hluti fram, og hafa því engan tíma afgangs til að bæta það upp, sem brestur á hlýðni þeirra; þar að auki bætum vjer daglega nýrri skuld við hina fyrri og hljótum að biðja: „Fyrirgef oss vorar skuldir!“ En annað atriðið heimtar óþarflega mikið, að því leyti sem það krefst að allar syndir sjeu upptaldar með nafni; því hver veit hvað opt honum yfirsjest! Ps. 19, 13., — og þess vegna kennum vjer í kirkju vorri: að eigi skuli þrýsta neinum til að telja fram syndirnar með nafni. Hinu fyrsta atriði, iðruninni sjálfri, spillir hin rómverska kirkja með því hún eigi gjörir mun á einlægri og óeinlægri iðran, heldur á ónógri og algjörðri, þar sem þó öll vor iðran er og verður aldrei nema mjög ófullkomin, og Guð lítur einungis á hjartalagið.

Aptur vantar hjer verulegt atriði, þá djörfung og traust trúarinnar, að syndir vorar skuli verða oss fyrirgefnar einungis fyrir Jesú sakir, (án þessa trausts af trúnni er hið fyrsta atriði, iðrunin, engu nyt (Matt 27, 3. 5.). Þetta atriði vantar, því trúin, sem hin rómverska kirkja telur æfinlega vissa, er einungis fólgin í því, að

skynsemin álíti satt, en er ekkert trúnaðartraust hjartans (V); en þegar hún þó eigi að síður nefnir traust til miskunar Guðs, sem hljóti að vera samfara angrinu, þá meinar hún þess konar traust á miskun Guðs, að hann vilji vera hinum iðrandi syndara náðugur, einnig fyrir sakir angurs hans, og kallar hún þannig angrið sjálft góðra gjalda vert; en að kenna það, að vjer fáum synda fyrirgefningu fyrir angur vort, hvað er það annað enn að treysta upp á verkin?

Að ritningin sjálf álíti að angur og trú útheimtist til sannrar iðrunar sjest af Matt. 11, 28.: „Komið til mín allir þreyttir og þjer, sem mæðist undir þungum byrðum, eg vil gefa yður hvíld!" Hjer eru tvö atriði: byrðin, sem Kristur nefnir, er eymd vor, hinn mikli kvíði og hræðsla fyrir reiði Guðs. Annað atriðið er þetta: að koma til Krists, og það er ekki annað enn að trúa því, að syndir vorar verði oss fyrirgefnar fyrir Krists sakir. Sömuleiðis segir Kristur Mark. 1, 5.: „Bætið ráð yðar og trúið gleðiboðskapnum. Fyrst kallar hann oss syndara og gjörir oss hrædda, því næst huggar hann oss og boðar oss fyrirgefningu syndanna.

2. En fullnægjugjörðina getur kirkjan gefið þeim upp, sem iðran gjöra; því kirkjan á ráð á óþrjótandi fjársjóð í þeim hlutum, sem Kristur og Heilagur Andi hafa svo yfirfljótanlega afrekað mönn-

um til sáluhjálpar, svo hún getur eptir vild sinni selt „syndalausn“.

Athugasemd: þá segjum vjer: kirkjan getur hvorki lagt á fullnægjugjörð, því það er beint á móti ritningunni og ómögulegt fyrir menn, nje gefið slíka fullnægjugjörð upp, af því hún eigi ráð á nokkrum svo yfirfljótanlegum fjársjóði, og það af þeirri einföldu orsök, að slíkur fjársjóður er ekkert annað enn heilaspuni beint á móti Guðs orði (IV, 1.). þannig er þá öll hin hneigslanlega kenning um syndalausn á engum fæti bygð og fellur því um sjálfa sig.

## IX. Í greininni um kvöldmáltíðarsakramentið.

1. þegar presturinn helgar, eða blessar yfir brauð og vín í kvöldmáltíðinni, breytist það (allt í einu eins og af töframagni) verulega í Jesú Krists líkama og blóð, svo eigi verður annað eptir enn hin upprunalega lögun, litur, lykt og smekkur.

Athugasemd: þá segjum vjer: 1., stendur ekki skrifað: það er orðið minn líkami; og þó það stæði nú svo, þyrfti ekki nauðsynlega að verða fyrir það, að brauðið breyttist gjörsamlega í hold; því það stendur líka skrifað: Orðið þ. e. önnur persóna guðdómsins, varð hold eða maður, og á það þó ekki að skiljast svo, að guðdómurinn hafi breyzt í manndóm, eða guðlegt eðli horfið og snúizt upp í mannlegt eðli. 2. En fyrst að nú

orðin, sem þessu efni viðvíkja, hljóta ekki að skiljast þannig, til hvers á þá að þýða þau beint á móti öllum vorum skilningarvitum? 3. Loksins bendir postulinn, sem segist hafa meðtekið það af Drottni (1. Kor. 11, 23.) með berum orðum til þess, að vjer eigum ekki heldur að skilja áður nefnd orðatiltæki svona, því hann nefnir brauðið, bæði áður og eptir að það er helgað og blessað, hvað eptir annað sínu upprunalega nafni, og kallar það ekki annað enn brauð (1 Kor. 10, 16.; 11, 27. 28.); en eptir kenningu hinnar rómversku kirkju er ekki orðið eptir af því annað enn skugginn tómur.

En hvað helgun brauðsins viðvíkur, þá vinnur presturinn ekkert að henni, heldur gjöra innsetningarorðin allt.

Því svo er sem Krysostomus segir: „Kristur tilreiðir sjálfur sitt borð og blessar það, því enginn annar getur gjört brauðið og vínið, sem fram er borið, að Krists líkama og blóði, enn Kristur sjálfur, sem er krossfestur fyrir oss. Orðin eru mælt fram af munni prestsins; en fyrir Guðs mátt og miskun, fyrir það orð: „það er minn líkami“ — blessast hinar heilögu gáfur. Og eins og þessi ummæli: „vaxið og fjölgizt og fyllið jörðina!“ eitt sinn töluð eru á öllum öldum fyllileg áhrýnsorð í náttúrunni, eins eru og verða hin orðin, eitt sinn töluð, kröptug og verkandi, unz hann

kemur aptur, svo að hans sanni líkami og blóð er nærverandi í kvöldmáltíð kirkjunnar.

2. Hið helgaða brauð helzt sannheilagt þegar eitt sinn er búið að blessa yfir það, hvort sem því verður útdeilt eður ekki, og má þess vegna geyma það, og, þegar svo ber undir, bera það sjúkum.

Athugasemd: þá segjum vjer: Drottinn var sá sem útdeildi brauðinu, og lærisveinarnir voru það, sem tóku það og átu. Hinu helgaða brauði var þess vegna útdeilt og þess var neytt. Eptir þessu förum vjer og erum þess vissir, að hið helgaða brauð, meðan vjer útdeilum því og neytum þess, er sannhelgur hlutur. En vjer höfum enga ábyrgð fyrir því, að brauðið sje og verði það utan sjálfrar útdeilingarinnar.

3. Hið vígða brauð á og skal tilbiðjazt af hinum trúuðu.

Athugasemd: þá segjum vjer: þegar þú meðtekur hið blessaða brauð getur þú beygt knje fyrir Drottni, sem nærverandi er í sakramentinu; þar á móti skaltu aldrei gjöra það fyrir brauðinu sjálfu. En gæti hin rómverska kirkja sannað að brauðið verulega breyttist í líkama Drottins, þá þyrfti ekki að mæla í móti því, því þá væri þó brauðið líkami hans, sem fylling guðdómsins býr í líkamlega, og fyrir hvers tign öll knje skulu sig beygja (Philipp. 2, 10.); en af því hún getur ekki þetta, gjörir hún rangt í að ota hinu vígða brauði að hinum trúuðu til tilbeiðslu, — því

það er ekki gefið til annars enn að eta það, — og að bera það í kring með mikilli viðhöfn á föstudaginn langa.

4. Til þess að neyta hinnar heilögu kvöldmáltíðar sjer til blessunar, þarf ekkert annað enn að engin vísvitandi óbeit eða mótspyrna eigi sjer stað.

Athugasemd: þá segjum vjer: einungis verðugleg nautn er til blessunar (1. Kor. 11, 29.). En sú nautn er verðug, sem samkvæm er tilgangi kvöldmáltíðarinnar. þar eð tilgangur hennar er enginn annar enn sá, að vjer í sakramentinu skulum fá fyrirgefningu syndanna fyrir Krists sakir, þá getum vjer því að eins notið þess verðuglega, þ. e. samkvæmt þess tilgangi (sbr. Philipp. 1, 27.), að vjer rjettilega iðrumst synda vorra og trúum því af hjarta, að Guð fyrir Jesú sakir vilji fyrirgefa oss þær, því annars kostar næst ekki tilgangur sakramentisins. það þarf því meira til þess að neyta sjer til blessunar, enn að engin vísvitandi óbeit eða mótspyrna eigi sjer stað.

5. þar eð blóðið verður ekki skilið frá líkamanum, og sjerhver þess vegna, sem neytir líkamans, meðtekur einnig blóðið, þá nægir kvöldmáltíðin með brauðinu einsömlu til sáluhjálpar. (Með þessu reynir hin rómverska kirkja að rjettlæta það, er hún eigi leyfir leikmönnum að drekka af kaleiknum).

Athugasemd: þá segjum vjer: Hjer er alls ekki að því spurt, hvert vjer álítum það nægi-

legt, Drottni hefur þókt nauðsyn að hafa það svona, annars hefði hann ekki innsett kvöldmáltíðina bæði með brauði og víni, og einmitt bætt þessu við með tilliti til kaleiksins: „drekkið allir hjer af“! En það sjest líka af 1. Kor. 11, 23. og fl. að Drottinn vill um allar ókomnar aldir láta halda kvöldmáltíð sína eins og hann sjálfur innsetti hana skírdagskvöld, með útdeilingu brauðs og víns, unz hann kemur sjálfur aptur að dæma lifendur og dauða (26. v.); og hvergi í kapítulanum er nokkur munur gjörður á klerkum og leikmönnum, heldur er svo að orði kveðið öldungis án mismunar: „Svo opt sem þjer (klerkar og leikmenn) etið þetta brauð og drekkið af þessum kaleik“, og (27. v.). „hverr (klerkar og leikmenn) sem etur þetta brauð og drekkur af kaleik Drottins óverðuglega“. — Af þessu leiðir þá að afbökun sakramentisins leikmönnum til hnekkis, verður ekki rjettlætt af ritningunni. En eigi verður henni fremur bót mælt með þeirri skynsemis ástæðu, „að vjer þó með líkamanum einnig meðtökum blóðið“; því ekki megum vjer ætlast til í nokkru efni að geta sjeð betur enn Drottinn vor og Meistari, og allra sízt, þar sem um er að gjöra testamenti, eins og hin heilaga kvöldmáltíð er. Annars getur hin rómverska kirkja ekki neitað því, að kaleikurinn var ekki tekinn frá leikmönnum fyr enn á 12. öld, og mætti

það miklum mótmælum af kennendum, sem voru í miklu áliti, já, jafnvel af páfum, sem kölluðu slíka afbökun sakramentisins „mikið kirkjurán“.

6. Í hinni heilögu kvöldmáltíð er Drottni æ af nýju fórnfært á óblóðugan hátt til fyrirgefningar syndanna (altarisfórn).

Athugasemd: Þá segjum vjer: 1., verulegar fórnfæringar eiga sjer alls ekki stað í nýja testamentinu; þar gilda einungis lofgjörðar- og kærleiksfórnir (Hebr. 13, 15—16.). 2. En óblóðug fórn til syndanna fyrirgefningar getur ekki átt sjer stað eptir ritningunni, því eigi fæst fyrirgefning án blóðsúthellingar (Hebr. 9, 12.). 3. Kristur hefur fórnfært sjer eitt sinn fyrir öll (Hebr. 9, 28.), og með einni fórn að eilífu fullkomna gjört þá, er helgaðir verða. Hin rómverska kirkja óvirðir þess vegna Krists eilíflega fullgildu friðþægingu með hinni sífeldu ítrekun altarisfórnarinnar, og fellur auðsjáanlega aptur til hins gamla sáttmála, þá er menn árlega urðu að frambera eins konar fórn, sem þó ekki gat fullkomlega hreinsað fórnfærendurna (Hebr. 10, 1.).

7. Auk skírnar og kvöldmáltíðar eru fimm sakramenti: konfirmation (staðfestingin), iðrun (skriptamál og aflausn), prestsvígsla, hjónavígsla og hin síðasta smurning.

Athugasemd: Þá segjum vjer: þegar orð-

ið „sakramenti“ er skilið í þeirri hinni rýmri þýðingu, eins og „heilög athöfn“, þá geta menn fyllilega kallað svo hinar fimm ofan nefndu athafnir; en þá má líka margt fleira heita sakramenti (t. a. m. bænagjörð prjedikan o. fl.). En hin rómverska kirkja vill láta þessar athafnir heita sakramenti öldungis í sömu þýðingu, eins og skírn og kvöldmáltíð; já, hún setur jafnvel konfirmationina ofar enn skírnina, og álítur hún þó skírnina svo nauðsynlega, að glötunin sje manninum vís, þó honum sje ósjálfrátt að missa af skírninni.

Til þess að ein athöfn geti heitið sakramenti í sama skilningi sem skírn og kvöldmáltíð, útheimtast þrjú atriði: 1, guðleg skipun; 2, jarðnesk tákn; 3, himneskir hlutir[1].

---

[1]) Konfirmationina vantar öll þessi þrjú atriði. Iðrunina vantar auðsjáanlega annað atriðið, hið jarðneska tákn. Prestsvígsluna vantar öll þrjú atriðin og eins hjónavígsluna. Með tilliti til hinnar síðustu olíu eða smurningar, sem kathólskir hafa við til að búa deyandi menn undir sáluhjálplegt andlát, þá er hvergi um hana talað í ritningunni. Sú smurning, sem um er talað Jak. 5, 14., þar sem annars allt er látið vera komið undir „trúaðri bæn“ sem smurningunni er samfara, var ekki til þess að búa deyandi menn undir sáluhjálplegt andlát, heldur til að „frelsa“ hina sjúku (15. v.) svo þeim gæti batnað (sbr. Mark 6, 13. v.).

## X. Í greininni um mannanna síðasta ástand.

Til er, eins og meðalástand, á milli himnaríkis og helvítis eins konar hreinsunareldur, þar er sálirnar, áður þær fá að komast inn í himnaríki, eiga að gjöra fullnustu bæði fyrir allar syndir af skeytingarleysi, og líka fyrir þær syndir til dauða, sem þær hafa ekki afplánað hjer á jörðunni. En þá kemur þeim þó að góðu gagni fyrirbænir trúaðra og altarisfórnin.

Athugasemd: þá segjum vjer: fullnægjugjörð af mannanna hálfu getur eptir ritningunni ekki einu sinni átt sjer stað hjer, þar sem þó opt má nokkurn veginn bæta að minnsta kosti fyrir það tjón, sem menn hafa ollað hjer með syndum sínum, því síður þá í öðru lífi; því að vísu segir svo hjá Matt. 5, 26. að iðrunarlaus syndari skuli verða fordæmdur, þangað til hann hefur borgað hinn síðasta pening, en þar stendur ekki, að hann nokkurn tíma geti borgað hann; þvert á móti verða menn að álíta hið gagnstæða eptir samhljóða vitnisburði ritningarinnar (Rómv. 3, 28. Gal. 2, 18.). En það er ekki einungis að hinn ímyndaði tilgangur hreinsunareldsins fellur um koll; hreinsunareldurinn í sjálfum sjer er ekkert annað enn uppáfinding manna. Hinn líklegasti staður ritningarinnar, sem hin rómverska kirkja skýrskotar til, er 1. Kor. 3, 14—15. En þar ræðir ekki um verulegan eld,

því annars hlyti gull, silfur, trje, hálmur (12. v.) líka að vera verulegt gull, silfur, o. s. frv., heldur er þar meintur óeiginlegur eldur; eins og líka postulinn með orðinu „líka sem" úr eldi (15. v.) sýnir það berlega, að hann talar hjer í samlíkingum. Hjer við bætist það, að þessi óeiginlegi eldur er ekki hreinsunareldur, heldur miklu framar einhver reynslueldur. Hvað verður þá úr hreinsunareldinum, þegar hvorki ræðir um verulegan eld eða um nokkra hreinsun?

En þegar loksins hin rómverska kirkja vitnar í 2. Makk. 12, —42—46, til að sanna gagnsmuni fyrirbænarinnar, sjerílagi altarisfórnarinnar fyrir dauða menn, þá verða menn að gæta þess, 1., að dæmi jafnvel helgustu manna í ritningunni eru ekki beinlínis skuldbindandi, sízt í gamla testamentinu, þar eð margt í því er af numið í nýja testamentinu (Hebr. 10, 9). 2. Júdas Makkabeus gjörði líka meir að verkum enn krafist er í gamla testamentinu, þar sem hann fram bar syndafórn fyrir hina föllnu, því enga skipun nje fyrirheit hefur það við að styðjast í gamla testamentinu. 3. Höfundurinn sjálfur kallar líka athöfn Júdasar Makkabæusar fallega og loflega (án þess hún hafi ritninguna við að styðjast). 4. Allur þessi staður er apokryphiskur.

## XI. Í greininni um kirkjuna.

1. Til sannrar einingar kirkjunnar heyrir ekki einungis samhljóðan í orðum, heldur líka í stjórnarlögum og siðum.

Athugasemd: Þá segjum vjer: postularnir áminna ávallt einungis til samkvæmni í orðum þ. e. í trú, kenningu og játningu (1. Kor. 1, 10.; Philipp. 3, 15.; Gal. 1, 7—8.; Eph. 4, 13. 14.; 1. Timoth. 6, 3.; 2. Timoth. 1, 13.), en með tilliti til allra ytri siða og háttsemi gefa þeir einungis yfir höfuð að tala þessa reglu: allt fram fari fallega og með reglu (1. Kor. 14, 40.) því Guð er reglunnar Guð; en líka, þegar svo ber undir, hvetja þeir til þess, að einn eða annar siður, sem auðsjáanlega er fagur og álitinn er gagnlegur, sje tekinn upp (1. Kor. 11, 2. 16.). En af því leiðir ekki, að fullkomin samkvæmni í fyrirkomulagi og siðum kirkjunnar sje alstaðar möguleg, æskileg eða jafnvel nauðsynleg til einingar hennar; og ef hart er að gengið, þá getur hin rómverska kirkja ekki heldur í raun og veru hælt þessari fullkomnu samhljóðan.

2. Þessi eina kirkja (þ. e. hin rómverska) getur ekki farið vilt, því hún stjórnast af Heilögum Anda; henni getur ekki skjátlast eða yfirsjest.

Athugasemd: Þá segjum vjer: kirkjan, sú sumsje, sem stjórnast af Heilögum Anda, fer heldur ekki vilt (Jóh. 16, 13.); hún er stólpi og

grundvöllur sannleikans (1. Tim. 3, 15.). En að hinni rómversku kirkju hefur opt skjátlast, sjest berlega bæði af því, hvað opt hún hefur komizt í mótsögn við sjálfa sig, og hversu auðsjáanlega hún hefur vikið frá Guðs orði. Og af því ályktum vjer, að í þessum greinum hefur hún ekki stjórnast af Andanum.

3. Utan þessarar einu sönnu kirkju (hinnar rómversku) er ekkert frelsi.

Athugasemd: Þá segjum vjer: utan kristilegrar kirkju er sjálfsagt ekkert frelsi, því hún ein hefur hönd yfir hinu sáluhjálplega orði og sakramentunum. Nú viljum vjer gjöra ráð fyrir því, sem þó ekki á sjer stað, að hin rómverska kirkja hefði og hjeldi lærdómi Krists hreinum og óafbökuðum í öllum greinum, en öll önnur kirkjufjelög hefðu ekki nema brot af honum — þá gæti að vísu hin rómverska kirkja kallað sig eina sanna og ófalsaða, en þó ekki beinlínis hina einu sáluhjálplegu, heldur yrði hún fyrst að sanna það, að ekkert annað kirkjufjelag fyrir utan hana hefði svo mikið af kristilegum sannindum, sem nauðsynlega þyrfti til sáluhjálpar. Eða getur maður með engu móti orðið hólpinn í kirkjufjelagi, sem að sönnu hefur suma lærdóma ranga, en stendur þó á ritningarinnar rjetta grundvelli um persónu Krists, verk og embætti (1. Kor. 3, 11.) uppbyggt á heyi og hálmi mannlegrar vizku, sem skal

verða í eldi brennt svo sem gagnslaust á þeim degi, er hvers eins verk verður prófað (13. v.)? Að maður getur það, þó með naumindum sje, sýnir einmitt 1. Kor. 3, 15., þar svo segir, að jafnvel sá, sem hjálpað hefur til að reisa þessa laslegu lærdóma, geti þó orðið hólpinn, líka sem úr eldi, þ. e. annaðhvort eins og brandur úr báli dreginn (Amos 4, 11.) eða líka eins og sá, sem gengið hefur í gegnum eldraun reynslunnar (1. Pet. 4, 12.); því reynslan þrýstir manni til að gefa gaum að hinu sáluhjálplega orði (Es. 28, 19.), álíta alla mannlega speki sem hey og hálm og hafna henni sem þvílíkri.

4. Orðsins þjónar eru prestar í eiginlegum skilningi (sjerílagi með tilliti til hinnar óblóðugu fórnar, sem þeir í altarissakramentinu eiga að bera fram fyrir fólkið).

Athugasemd: Þá segjum vjer: allar eiginlegar fórnir eru afnumdar í hinu nýja testamenti (Hebr. 10, 9.); þar gilda einungis lofgjörðar- og kærleiksfórnir; en þar sem engar eiginlegar fórnir eru, þar eru engir eiginlegir prestar.

5. Prestastjettin á því að álítast eins og algjörlega og verulega fráskilin stjett leikmönnum[1]:

---

[1]) Ókvæni (cælibat þ. e. bann, sem ekki leyfir prestum að kvænast) var innleitt þrátt fyrir ákröfustu mótmæli prestanna, eins og það líka berlega stríðir á móti 1. Tim. 4. 3.; 1. Kor. 9, 5.; 1. Tim. 3, 2. 11. og Tít. 1, 6.; á tveimur hinum síðast nefndu stöðum er biskupunum, eins og hverjum sannkristnum manni, einungis bannað að hafa

Athugasemd: þá segjum vjer: allir kristnir eru andlegir prestar (1. Pet. 2, 9.) og hafa því sömu rjettindi, en þeir hafa ekki allir sama embætti og köllun (Eph. 4, 11—12.); því Guð hefur sett kennarastjettina til þess að uppbyggja því betur söfnuðinn. þetta þá, að hirðarnir hafa á hendi embættið, sem limir safnaðarins hafa ekki nema að eins rjettinn til, er eini munurinn á þeim.

6. Prestarnir geta eigi heldur komizt aptur í leikmanna röð, því vígslan setur á þá það einkenni, sem aldrei skilur við þá.

Athugasemd: þá segjum vjer: vígslan er í raun og veru ekki annað enn uppbyggilegur kirkjusiður, til þess fyrst að reyna manninn, og svo á hátíðlegan hátt að staðfesta köllunina og biðja

---

fleiri enn eina konu; en tilgangurinn með þetta bann var sá að gjöra aðskilnaðinn milli klerka og leikmanna enn nú meiri, og gefa hinum eins og eitthvert dýrðarskin fyrir dygð, þar sem þó hjónabandið, þegar það er skoðað samkvæmt guðsorði, sem prýðir það og helgar, getur ekki einungis metist til jafns við aðrar stjettir, heldur stendur þeim öllum ofar.

Annars er það svo, að eins og ekkert mannlegt bann getur aptrað því að jörðin skuli grænka, úr því Guð sagði: jörðin gefi af sjer grös og jurtir! svo getur ekki heldur nokkurt klausturloforð breytt svo mannlegu eðli, að karlmaður eigi girnist kvennmann og kvennmaður karlmann, nema það sje sjerstök gáfa af Guði (1. Kor. 7, 7.) sem ekki er vert fyrir neinn að æskja eptir, en sem Guð útlutar þeim hann vill (1. Kor. 12, 21.).

blessunar Guðs yfir þeim, sem kallaður er. Megi nú ónýta eða taka aptur það, sem mest er um vert, köllunina sjálfa, því þá ekki líka vígsluna?

7. Orðsins þjónar eru andlegir „dómarar“, er í Guðs stað meta syndir þær, sem sjerstaklega eru upptaldar fyrir þeim, fyrirgefa oss þær eða apturhalda þeim og leggja á hegningu til iðrunar.

Athugasemd: þá segjum vjer: að vísu hefur hin kristilega kirkja rjett til þess að fyrirgefa oss syndirnar eða apturhalda þeim í Guðs stað (Matt. 18, 18.); en eptir þeirri reglu, sem guðsorð hefur sett, og með vissu skilyrði, þegar úr vöndu er að ráða. Til að geta neytt þessa rjettar, hefur líka sá þjón, sem löglega er kallaður, fengið í höndur embættið, en er fyrir það enginn dómari, sá er tekur próf og ákveður hegningu skriptabörnum sínum, heldur „hjálpar til gleði þeirra“ (2. Kor. 2, 24.).

8. Orðsins þjónar hafa metorðatilskipun sín á milli, frá prestinum til biskupsins, og biskupinum, svo sem eptirmanni postulanna, ber sá rjettur að staðfesta og vígja.

Athugasemd: þá segjum vjer: í vissum skilningi er ekki nokkur einn orðsins þjón eptirmaður postulanna, því til postulaembættisins heyra tvö atriði: það fyrst, að maðurinn hafi frá upphafi verið heyrnar- og sjónarvottur Drottins Jesú (Gjörn. Post. 1, 21—23.; Jóh. 15, 27.[1]);

---

[1]) Postulanum Páli hafði Drottinn birzt á yfirnáttúrleg-

það annað, að maðurinn sje beinlínis kallaður til þess af Drottni (Gal. 1, 1.; Gjörn. Post. 1, 24,); og þessu samfara er þriðja atriðið, að manninum geti með engu móti skjátlast í þeim efnum, er snerta hinn sáluhjálplega lærdóm; því þeir áttu ekki að vitna einir, heldur átti Heilagur Andi að vitna með þeim Jóh. 15, 26—27.), hann átti að minna þá á allt, sem við þá hafði verið talað (Jóh. 14, 26) og yfir höfuð leiða þá í allan sannleika (16, 13.). þessi þrjú atriði, að hafa verið sjónarvottur, að hafa fengið beinlínis köllun, að þeim eigi geti skjátlast, geta hvorki prestar nje biskupar sannað um sig, og þess vegna er ekki nokkur einn orðsins þjón í fullum skilningi eptirmaður postulanna. En í vissum skilningi eru allir orðsins þjónar án mismunar (og ekki biskuparnir einir) postulanna eptirmenn, því þeir hafa allir sama embætti sem sálusorgarar, og þá vantar einungis fullkomlegleika postulanna. þessi metorðatilskipun getur því ekki átt sjer stað á milli þeirra, nema af mannlegu en ekki af guðlegu valdi: því þeim eru öllum jafn heimil þau störf, sem sálusorgurum heyra (að prjedika, skripta, höndla með sakramentin og vígja). Svo var það án efa í kirkju

---

an hátt 2. Kor. 12, 1. svo hann gat sagt; „jeg hef meðtekið það af Drottni“ 1. Kor. 11, 23.; Gal. 1, 12.; og því var hann eins gildur og sjónarvottur.

Krists á postulanna dögum. Þetta sjest af Gjörn. Post. 20, þar eru sömu mennirnir, sem í 17. v. eru kallaðir öldungar (prestar), í 28. v. kallaðir tilsjónarmenn (biskupar) sbr. Tit. 1, 5. 7.

9. En ofar og yfir öllum stendur páfinn í Rómaborg, því hann er, svo sem eptirmaður Pjeturs hins æðsta af postulunum, kirkjunnar sýnilegi yfirmaður og ríkisstjóri Krists á jörðunni.

Athugasemd: Þá segjum vjer: Krists ríkisstjóri á jörðunni er Heilagur Andi (Jóh. 14, 16.); honum er líka einum unnt að vera það, því hann er Drottni jafn að mætti og dýrð.

En það er að minnsta kosti mikið efasamt, hvert það væri hagur fyrir kirkjuna að hafa sýnilegan yfirmann, þó ekki væri nema fyrir reglunnar sakir í mannlegum skilningi, því bæði er ríkið óvenjulega stórt og breiskleiki mannsins yfrið mikill. Að páfinn kallar sig eptirmann Pjeturs, er eins og það mál er virt, þó það hafi enn aldrei verið sannað, að Pjetur hafi nokkurn tíma verið biskup í Róm. En af því gæti engan veginn leitt, að páfinn hefði með sálusorgara embættinu einnig fengið hið postulalega vald og umboð Pjeturs; því það fylgdi honum sjálfum og gat eigi gengið í erfðir. En þegar hin rómverska kirkja kallar Pjetur æðstan postulanna, og segir hann hafa haft sjerstaklegt vald og yfirboð umfram hina postulana, þá gat þessi myndugleiki, sem hann einn

hafði um fram hina, enn síður gengið í erfðir heldur enn hið postulalega umboð yfir höfuð að tala; en að Pjetur hafi sem postuli haft nokkurt vald og yfirboð fram yfir hina postulana, verður alls ekki sannað af heilagri ritningu, og það slítur allri þrætu um yfirgang páfanna, sem styðst við þessa Pjeturs yfirburði. Hin rómverska kirkja skýrskotar til Matt. 16, 18. svo sem óyggjandi vitnisburðar. En Drottinn gat vel byggt kirkju sína á Pjetri, án þess að veita honum nokkra yfirburði í embættinu, að því leyti sem Pjetur fyrstur af postulunum viðurkenndi skírt og sköruglega þann grundvöll, sem kristileg kirkja átti að byggjast á, þ. e. játaði trúna á Jesúm Krist sem Son lifanda Guðs 1. Kor. 3, 11. og af því hann vegna þessarar sinnar föstu játningar og fjöruga fylgis var satt að segja sá, sem helzt gekk fram á Hvítasunnudeginum og safnaði Drottni hinum fyrsta söfnuði (Gjörn. Post. 2, 14.); og það verður þannig alls ekki sannað af Matt. 16, 18, að Pjetri hafi verið veitt nokkurt vald eða yfirboð umfram hina postulana. En að Pjetur er optast seinna nefndur fyrstur af postulunum, þegar um eitthvað var að gjöra (Gjörn. Post. 2, 14.; 3, 4. 12.; 4, 8.; 5, 3, 29.; 8, 20.) er vel skiljanlegt; hann var æfinlega eins og á undan hinum, tók til máls í nafni allra hinna (Matt. 16, 16. 22.; Jóh. 6, 68.) gekk fyrstur

inn í grafhelli Jesú (Jóh. 20, 5—8.) vildi einu sinni ganga til móts við Drottinn á sjónum, og í öðru sinni synti til hans, því hann var svo fjörugur, hugaður og einbeittur, og hlaut því að koma fram sem talsmaður og oddviti hinna ellevu, þó honum að öðru leyti ekki væru veittir neinir embættislegir yfirburðir yfir þá [1].

## Aðaleinkenni

hinnar rómversku kirkju eru þá þessi:

1. Hún hefur stofnað nýjan levitiskan klerkdóm, eins og var á dögum gamla testamentisins, og fyrirskipað mikinn fjölda af helgisiðum.

2. Hún bindur Heilagann Anda við páfa og klerkaþing, án þess að spyrja hvert þeir sjeu andlega sinnaðir; segir hluttekningu sakramentanna vera til blessunar, þó að vanti einlæga iðrun og trú; lætur trúna vera fólgna í munnlegri játningu sannleikans; skoðar mannsins upprunalegu vizku, rjettlæti og helgun eins og eitthvert ofanálag; þekkir enga aðra synd enn verulegan verknað; mengar og skemmir allt með útvortis athöfnum, og metur mikils til of mikið alla ytri siði og setninga.

3. Yfir höfuð miðar hin rómverska kirkja guðsdýrkun sína við tilfinninguna og ímyndunina: líkneski og helga dóma lætur hún kyssa, þukla og skoða; Drottins líkama og blóð í kvöldmáltíðinni

---

[1] Páfinn lætur sjer ekki nægja að vera kirkjunnar sýnilegi yfirmaður, hann hefur líka á hendi með biskupum sínum veraldlegt stjórnarvald, sem var næsta ólíkt honum, hvers ríkisstjóri hann þykist vera (Jóh. 18, 36.; Matt. 20, 24.; Lúk. 12, 14.) og hann slettir sjer fram í veraldleg málefni.

lætur hún leika með töfrum fyrir skilningarvitum manna; með viðhöfn, sönglist og reykingum ofbýður hún augum og eyrum og öllum skilningarvitum; en skynseminni og hjartanu er hún rjettnefnd stjúpa, því þeim sinjar hún um Guðs orð, með því hún lætur viðhafa hina latínsku tungu, sem fæstir skilja. En þegar lúðurinn lætur óglöggt til sín heyra, hertýjast fáir!

4. Hinni rómversku kirkju hættir of mjög við að skoða Guðs ríki, eins og eitthvert konunglegt hirðarhald á jörðu, þar sem menn helzt geta komið sjer fram með fyrirbænum, og það því betur, sem sá hefur meiri verðleika, er menn leita fyrirbæna til En María er talin afdráttarlaust sem almáttugur dýrðlingur í himnahöllu.

---

## Eptirmáli.

Hjer kemur þá loksins ritlingur sá, sem jeg lofaði mönnum í Norðra í sumar, til að skýra ögn fyrir þeim kathólskuna. þyki einhverjum hann heldur fátæklegur um það efni, vil jeg láta virða mjer það til vorkunar, er mjer hefur aldrei verið kathólska kennd, og eigi hafði jeg hjer við höndina bækur, sem jeg hefði mátt styðjast við. þetta litla hef jeg tínt saman úr norsku tímariti, sem mjer barst í hendur í vor. það heitir á íslenzku: „Handa fátækum og ríkum“, og er Sunnudagsblað til fróðleiks og skemmtunar. Upphaflega er rit þetta samið af þjóðverskum manni, sem Graul heitir; úr hans bók snjeri Halling prestur því fyrir Norðmenn; og nú sendir yður það, Íslendingar! Sveinbjörn prestur, og með því kveðju Guðs og sína.

Akureyri dag 31. júlí 1857.

